GUNNAR DAL:

Vera, ljóð, 1949
Sfinxinn og hamingjan, ljóð, 1953
Rödd Indlands, 1953
Þeir spáðu í stjörnurnar, 1954
Sfinxinn og hamingjan, 2. útg., 1954
Sókrates, 1957
Spámaðurinn (þýdd ljóð), 1958
Oktoberljóð, 1959

Saga heimspekinnar:
Leitin að Aditi, 1961
Tveir heimar, 1961
Líf og dauði, 1961

## *Líf og dauði*

Hvað bíður okkar handan grafar og dauða? Er það eilíf myrk nótt gleymskunnar eða önnur og ný tilvera? Hver er sá, sem hefur ekki spurt sig þessarar spurningar og leitað svars við henni? Pílagrímurinn á bökkum dauðafljótsins er knúinn til að ráða þessa gátu. Hann þreifar fyrir sér með staf óttans, — en finnur ekki botninn. Stafur skynseminnar nær einnig skammt í dulardjúp þessa fljóts. Þess vegna er leitað á vit trúarinnar.

Öll trúarbrögð kenna að við lifum eftir dauðann, og flest þeirra hafa aðhyllzt í einhverri mynd þá kenningu, sem hér verður fjallað um, kenninguna um fortilveru sálarinnar og endurfæðingu mannsins til jarðarinnar.

Kenning þessi er sögð indversk að uppruna, og hún er sameiginleg allri indverskri heim-

speki og trúarbrögðum, og með þeim hefur hún borizt um lönd og álfur.

Indverskir heimspekingar halda því fram í þessari kenningu, að „sál“ mannsins sé ódauðleg og eigi sér ekki takmörk í tíma, byrji ekki að vera til og líði ekki undir lok. Þeir eru andvígir þeirri trú, að fæðing mannsins á jörðinni sé upphaf tilveru hans, — að sálin sé jafngömul líkamanum og sköpuð á sama tíma. Ef sálin ætti sér upphaf, væri hún ekki eilíf, því að þá hlyti hún einnig að eiga sér endi. Ef sálin er sköpuð með líkamanum, hví skyldi hún þá ekki einnig deyja með honum?

Sálin getur ekki skyndilega orðið til úr engu. Hvorki efni né andi verður skapað úr engu.

Kenningin um fortilveru og endurfæðingu verður Gyðingum vel kunn eftir 536 fyrir Krists burð, þegar Ísrael var hernumið af Persum, en til Persa hafði kenningin áður borizt frá Indlandi. — Fyrir þann tíma trúa ekki allir Gyðingar á annað líf og sumir höfundar Gamla testamentisins eru vantrúaðir á framhaldslíf. Sá spaki Salómon segir t.d.: — „Haltu leiðar þinnar, et glaður brauð þitt og drekk vín þitt með glöðu hjarta . . . því það er ekkert starf, né hugsun, né þekking né vizka í gröfinni sem

bíður þín“. Og Saddúkear, sem fylgdu hinum gamla gyðinglega rétttrúnaði, trúðu ekki á kenninguna um upprisu og annað líf. — Eftir að Gyðingar komust í kynni við hina indversku kenningu um fortilveru er hennar víða getið í ritum þeirra. Í Talmúd er sál Abels t.d. sögð hafa endurfæðzt sem Sath og síðan Moses. Á dögum Krists var hún alkunn meðal Gyðinga og m.a. boðuð þeim af heimspekingum frá skólanum í Alexandríu.

Persar komust snemma í kynni við þessa kenningu, og eftir að Alexander mikli tileinkaði sér hana í austurför sinni, varð hún mjög útbreidd í Persíu. Með Súfismanum hefur hún borizt um öll lönd Múhameðstrúarmanna, og í Grikklandi var hún trú þeirra, sem aðhylltust heimspeki Sókratesar, Platós og Pyþagórasar. „Sálin er eldri en líkaminn. Ótal sinnum fæðist sálin inn í þennan heim“, má lesa í ritum Platós.

Að vísu er kenning Platós ekki hin sama og sú indverska, þótt báðar boði fortilveru sálarinnar. Plató trúði því, að menn gætu fæðzt í ótal gervum manna og dýra. Sú kenning hefur verið nefnd sálnaflakk (transmigration).

Í bók sinni Phædrus lýsir Plató hvernig sál-

in fæðist aftur og aftur til jarðarinnar, ýmist sem maður eða dýr:

„Seifur faðir guða og manna og dýra ekur vængjuðum vagni sínum um himininn og fylgist með öllum hlutum á himni og jörð. — Fylking guða og sálna fylgir honum og hver þeirra vinnur sitt ætlunarverk. — Eftir hringför sína um jörðina heldur fylkingin á bratta himinhvelfingarinnar til hinnar dýrðlegu veizlu, sem henni er búin á himnum.

Hervagnar guðanna fljúga léttilega upp himinbogann. Aðrir fylgja með erfiðismunum, því að fákurinn, sem vagninn dregur, er viðsjáll gripur, og ef sá, sem á taumunum heldur, handleikur þá ekki öruggri og styrkri hendi, rennur hann niður til jarðarinnar aftur, þar sem sálin tekur á sig klafa þrælkunarinnar.

Sálir guðanna ná tindinum, stíga niður úr vögnum sínum og ganga til fullsælu hins æðsta himins. — Slíkt er líf guðanna. Þeir, sem bezt fylgja, komast aðeins nógu langt til að skyggnast inn í eilífðina og sjá þar í sjónhendingu leiftur hins æðsta sannleika. Síðan setjast þær að á hinum lægri himnum. Hinar sálirnar, sem þrá hinn æðri heim, en skortir þrótt til að fylgja vögnum guðanna, hrapa niður í djúpin, þær

brjótast þar um og troða hver á annarri. Margar brjóta vængi sína og örmagnast. Þegar sálin er þannig orðin ófær um að sjá hina háu sýn eilífðarinnar, reikar hún um í myrkri gleymsku og spillingar. Sálin missir vængi sína og hrapar til jarðarinnar og þar fæðist hún mörgum sinnum í gervi manns eða dýrs. Tíu þúsund ár hljóta að líða áður en sálin fær snúið aftur til ættlands síns, því að á skemmri tíma vaxa sálinni ekki vængir.

Þannig kennir Plató í bók sinni Phædrus. Pyþagoras hafði svipaðar skoðanir. Hann kenndi, að sálin færi fyrst eftir andlátið til dánarheima, en sneri síðan aftur til jarðarinnar og fæddist þar aftur sem maður eða dýr. Fyrst eftir að sálin er orðin algjörlega flekklaus, hverfur hún aftur til hinnar eilífu uppsprettu sinnar.

Forn-Egyptar álitu, að sálin eftir viðskilnað sinn við líkamann færi úr einu gervi í annað um þúsundir ára til þess að afla sér reynslu og þekkingar á öllum sviðum lífsins. Herodotus segir: „Egyptar halda fram þeirri kenningu, að sálin sé ódauðleg. Þegar líkaminn deyr, hverfur hún í annað gervi, sem henni er búið“.

En þessar hugmyndir um sálnaflakk eru ekki að öllu leyti hin indverska kenning um endur-

fæðingu. Helztu heimspekingar Indlands halda fram, að kenningin um sálnaflakk hafi aldrei verið kennd í indverskri heimspeki. Jafnvel þegar á stöku stað í Vedabókum er talað um, að menn endurfæðist sem hundar, kettir, slöngur, fílar eða ljón, beri ekki að skilja það í bókstaflegri merkingu, heldur séu þessi orð notuð sem líkingar til að lýsa mismunandi manneðli. Stundum virðist að vísu sem manninum miði aftur á bak eitthvað ákveðið tímabil og hann getur jafnvel orðið að siðlausum villimanni, en aldrei endurfæðzt sem dýr.

Þessi kenning varð loks kjarninn í heimspekiskóla Ammoniusar Saccas í Alexandríu á 3. öld. Kenningar þessa skóla eru boðaðar í dag í mörgum löndum heims, þótt þær hafi klæðzt nýjum búningi við hæfi nýrra tíma.

En í hverju er þá þessi kenning fólgin? Hver eru svör hennar við lífsgátunni? Hvað er það, sem í raun og veru gerist, þegar maður deyr? Um hvaða heima liggur för mannsins? Hver er tilgangur þessarar farar? Og að lokum, — hvernig getur maðurinn fæðzt til jarðarinnar á ný?

Hugsum okkur mann, sem liggur í rúmi sínu og er að yfirgefa þennan heim. Líkamsstarf-

semin hættir smám saman, hin ytri skynfæri sljóvgast og hugarstarfsemin tekur kynlegum breytingum. Á þessum síðustu augnablikum kemur venjulega liðin ævi upp í huga mannsins. Hver myndin rekur aðra. Margt, sem áður virtist án tilgangs, skynjar maðurinn í nýju ljósi. Margt, sem áður var gáta, er nú leyst. Ósjálfrátt gerir maðurinn upp ævi sína á þessum miklu vegamótum, og tilgangur þessa lífs verður honum ljós. Af þessum orsökum eru menn beðnir að vera hljóðir í návist deyjandi manns og lofa honum að fara í friði, svo að sál hans geti unnið sem bezt úr þeim boðskap, sem liðin ævi hefur að flytja henni.

Hinum deyjandi manni virðist hann byrja að síga niður, falla lengra og lengra niður í eitthvert hyldýpi. Dauðinn nálgast hann.

Skyndilega verður hann var við, að hann liggur í láréttu ástandi í loftinu upp yfir sínum eigin líkama, sem í rúminu liggur. Þetta ástand hans vekur hjá honum undrun. Hvað hefur gerzt? Hvernig má það vera, að hann liggur þarna niðri í rúminu og er þó á sama tíma hér í öðrum líkama? Hann veit, að þetta er ekki draumur, því að vitund hans er skýr eins og í vöku, jafnvel skýrari en nokkru sinni fyrr. —

Hann veitir athygli, að milli hinna tveggja líkama, þess sem í rúminu liggur og þess, sem hann skynjar nú sem „ég sjálfur“, liggur mjór silfurgrár strengur, sem tengir þá saman. Fyrst þegar þessi þráður slitnar, er maðurinn örendur.

Það er erfitt að hugsa sér framhaldslíf mannsins í nýjum heimi án líkama, sem er í samræmi við hinar nýju aðstæður. En hvaðan ætti manninum að berast slíkur líkami, ef hann væri ekki þegar fyrir hendi fullskapaður í hinum efnislega líkama? — Í indverskum fræðum er því haldið fram **að maðurinn hafi þrjá líkama:** efnislíkama, geðlíkama og huglíkama. Þessir þrír líkamar fléttast hver í annan og liggja að mestu í sama rúmtaki. Hugmyndin virðist okkur í fyrstu hreinasta fjarstæða. Við viljum ekki trúa öðru en því sem við getum séð og þreifað á. Og hvernig ættu þrír líkamar, sem allir eru úr efni að rúmast í einum? — En við nánari íhugun sézt, að það er barnalegt að halda, að við þekkjum hið raunverulega ástand hlutanna með skynfærum okkar, — þau greina ekki nema örlítið brot þess raunveruleika, sem er í kringum okkur. Augað t.d. getur aðeins greint eina af meir en 50 „áttundum“ af „elektronagnetisk-

um“ bylgjum, sem vísindin þekkja. Hvernig liti veröldin út, ef maðurinn hefði skynfæri, sem veitti öllum þessum bylgjulengdum viðtöku? Svipuðu máli gegnir um önnur skynfæri. Skynfærin hafa orðið til sem baráttutæki fyrir viðhaldi lífsins, og enginn getur neitað, að ný skynfæri kunna að geta skapazt og opnað nýjar hliðar á áður óþekktri tilveru.

Öllum ætti því að vera ljóst að heimur hins séða og áþreifanlega er ekki annað en sandkorn á sjávarströnd þess veruleika sem umlykur okkur.

En þetta svarar ekki spurningunni um hvernig þrír efnislíkamar geta rúmazt í einum og fléttazt hver inn í annan. — Til að skilja hvernig þetta getur gerzt verða menn að losa sig við trú sína á að efni sé „solid“, þétt og heilsteypt eins og skynfærin segja okkur að það sé. Hvað segja nútíma vísindi okkur um eðli efnisins? — Til skamms tíma var okkur kennt, að til væri eitthvað, sem kallað var „smæsta efnisögn“. — Okkur var kennt, að það væri hinn fasti grundvöllur efnisins. Sagt var, að efnið væri byggt upp af mólekúlum og mólekúlin úr atómum, atómið aftur úr elektrónum, prótónum og nevtrónum. En langmestur hluti þessa atóms var

þó viðurkennt, að væri tóm, þannig að hið „hreina efni“ þess var hverfandi lítið brot af rúmtaki atómsins. Svo lítið, sögðu vísindin, að þetta „hreina efni“ væri, að ef hægt væri að taka allt hið „hreina efni“ líkamans saman í eitt þannig, að hvergi væri tóm eða „loft“ á milli, mundi vera hægt að setja þetta efni í lófa manns og þar yrði það aðeins séð með smásjá.

En jafnvel þessa litlu ögn, sem hér er eftir af hreinu efni, hafa vísindi síðustu á ra ekki látið í friði. — Því hefur verið breytt í orku, og orkunni er aftur hægt að breyta í efni. Þetta þýðir, að vísindi síðustu ára eru farin að viðurkenna hina ævafornu indversku kenningu um, að efni og orka sé sama fyrirbrigði.

Af þessu má sjá, að efnisins vegna er ekkert því til fyrirstöðu, að þrír líkamar geti rúmazt í því rúmtaki, sem takmarkast af útlínum líkamans. Ekki svo að skilja, að hinir tveir innri líkamar verði rannsakaðir efnafræðilega enn sem komið er a. m. k. Ástæðan til þess er sú, að þeir eru úr annarri og fíngerðari tegund af efni en „okkar efnisheimur“ og óskynjanlegir flestum mönnum á sama hátt og þessi efnisheimur, er frá astralheimum og hinum hærri veröldum skynjaður sem skuggi og jafnvel tóm.

Hin forna kenning um að maðurinn hafi þrjá líkama er því engan veginn jafn fráleit og hún virtist í fyrstu. Þær mótbárur gegn henni, sem koma upp í huga flestra við fyrstu kynni, reynast á misskilningi byggðar. — Og þegar öllu er á botninn hvolft þurfum við ekki lengra en á líkskurðarstofuna til að þreifa á þeirri staðreynd, að jafnvel efnislíkaminn er samsettur úr mörgum líkömum, sem fléttast hver inn í annan. Þó fer því fjarri, að allir hlutir þessara líkama, sem nefndir eru efnislíkami, séu sýnilegir eða áþreifanlegir. Æðakerfi mannsins t. d. sem er samanlagt talið ná tvo og hálfan hring umhverfis jörðina, er ekki nema að nokkru leyti sýnilegt. Í sambandi við það, sem síðar verður sagt um hina (með okkar augum séð) ósýnilegu líkama mannsins, eru ummæli dr. E. H. Pratt mjög athyglisverð. Í bók sinni „The Composite Man“, vekur hann athygli á þeirri staðreynd, að ef æðakerfi mannsins er einangrað frá hinum samtvinnuðu kerfum líkamans, mundi aðeins hluti þess verða sýnilegur. — Hinn ósýnilegi hluti þess, segir hann, mundi birtast sem geislahjúpur eða „ára“ utan um þennan líkama æðakerfisins.

Á sama hátt og skoða má efnislíkamann sam-

settan úr mörgum líkömum, eru hinir hærri líkamar mannsins einnig greindir sundur í fleiri líkama, en út í það skal ekki farið hér.

Kennt er að för mannsins liggi um þrjár veraldir: Efnisheima eða jörðina, geðheima og æðri heima sem ganga undir mörgum nöfnum: Himnaríki, hugheimar, ljósheimar o. s. frv. Þessa flokkaskiptingu má þó ekki taka of bókstaflega þar sem í veruleikanum er um fjölda mörg og ólík tilverustig að ræða, bæði í astralheimum og æðri heimum sumum, sem liggja langt ofar mannlegri þróun. En þessi skipting er hagkvæm til að átta sig á höfuðatriðum þessa boðskapar og er henni því haldið hér.

Þessir þrír líkamar mannsins hvíla allir (í jarðvist manna) í sama rúmtaki líkt og ljósgeislar, hitageislar og rafurmagn geta fyllt hið sama herbergi. Efni þessara þriggja líkama svarar nákvæmlega til þess efnis, sem hinir þrír heimar, sem getið hefur verið um, eru myndaðir úr. Efnislíkaminn er gerður úr sömu tegund af efni og þessi jörð okkar eða „efnisheimurinn“, geðlíkaminn úr sömu tegund af efni og geðheimar, ljóslíkaminn úr sömu tegund af efni og ljósheimar.

Og nú getum við aftur horfið til hins deyjandi

manns og skilið, á hverju þessi reynsla hans byggist.

Þráðurinn hefur slitnað og líkamarnir tveir (sem maðurinn skynjar enn aðeins sem einn, eins og á jörðinni, meðan þeir voru þrír) og allir hinir æðri eðlisþættir mannsins hafa skilið við líkamann. Hann er örendur, og borinn til grafar. Þó getur jafnvel líkaminn ekki dáið, því að dauði er hvergi til. Frumur hins örenda líkama sundrast og hver þeirra fer með sinn hlut af prönu hans eða lífsorku. Þessa orku flytja þær með sér út í náttúruna og taka með henni þátt í lífi annars líkama, manns, dýrs eða jurtar. En þessi líkami er manninum að sjálfsögðu eilíflega glataður.

Maðurinn er nú kominn til astralheima eða geðheima. Hann er nú í líkama, sem ýmist er nefndur geðlíkami eða orkulíkami. Þessi líkami er sagður gegna mikilvægu hlutverki í jarðvist manna. Í honum eru hinar 6 orkustöðvar Chakrams sem getið er um í hinum fornu bókum Indlands, og eru sagðar veita „prönu", alheimslegum lífskrafti, viðtöku og senda hann um efnislíkamann og aðra líkama mannsins. Geðlíkaminn er fyrst eftir dauðann all nákvæm eftirmynd jarðlíkamans. Aðalmunurinn er sá

að hann, eins og allt efni í geðheimum er sjálflýsandi og yfirbragð hans verður í nánari tengslum við hugarfar mannsins. Meðan þessi líkami er samofinn efnislíkamanum nær hann örlítið út fyrir takmörk hins síðarnefnda og er sá hluti hans oft séður af skyggnu fólki og nefnist ára. Líkt og hinn ósýnilegi hluti æðakerfisins birtist sem hjúpur, er hinn ósýnilegi hluti geðlíkamans raunar ekkert annað en hinn fíngerðasti hluti hans. Eftir dauðann verður ára geðlíkamans enn litríkari og tjáir með litum sínum allar hugsanir og tilfinningar mannsins. Mjög fljótt eftir dauða sinn á jörðinni leggst maðurinn að jafnaði í meðvitundarlausan dvala, sem stendur yfir einn og hálfan til tvo sólarhringa.

Meðan á þessum dvala mannsins stendur í geðheimum eða Kamaloka, eins og þessi heimur nefnist í indverskum fræðum, losnar hann að fullu úr viðjum efnislíkamans og samlagast hinni nýju tilveru.

Efnið, sem geðlíkaminn losnar við í þessum dvala, tekur á sig svipmót mannsins og verður það sem kallað er svipur eða vofa. Vegna hins nána sambands þessa grófgerðasta efnis geðlíkamans við jarðneska líkamann, dregst þetta gerfi oft til hans. Skyggnir menn sjá oft mikið

af þessum fyrirbrigðum í kirkjugörðum og öðrum grafreitum. Þjóðtrúin áleit þessa svipi sál hins framliðna, en þeir eru aðeins astralgerfi án vitundar og sálar. Þeir geta þó verið á reiki nokkra stund vegna prönu sinnar eða orku, sem þeir hafa fengið frá geðlíkamanum.

Að „vekja upp draug" eða „senda sendingar" er að sögn í því fólgið að leiða vissa orkustrauma (prönu) inn í hið vilja- og vitundarlausa astralgerfi og magna það þannig og gefa því ákveðinn vilja, sem skapaður er af sterkri utanaðkomandi hugsun, til að framkvæma það verk, sem gjörningamaðurinn ætlar henni.

Vegna þessa dvala sálarinnar er brýnt fyrir mönnum að „gefa dánum ró". Sterkar hugsanir geta vakið manninn upp af dvala sínum, áður en aðlögun hans að hinu nýja umhverfi hefur að fullu farið fram. Hann leitar þá jafnan niður til jarðarinnar aftur til að svara kalli hennar, án þess þó að vera til fulls vaknaður til hins nýja lífs. Á þennan hátt tefst hann í aðlöðun sinni og þolir stundum óþarfar þjáningar. Þessir menn eru algengir á miðilsfundum og eru þá stundum eins og milli vita.

Aðrir menn, sem eiga oft erfitt með að átta sig á hinum nýja heimi, eru þeir sem farast

skyndilega af slysförum. Þeir falla ekki í dvala fyrst eftir andlátið eins og þeir sem deyja eðlilegum dauða, og fyrir þeim er allt svo líkt, að þeir sjá og heyra allt eins og það er á jörðinni og eiga erfitt með að átta sig á, hvernig komið sé. Vegna þessara manna eru starfandi hjálparsveitir, sem annast hvern mann, sem á hjálp þarf að halda — og smám saman er þessum mönnum „komið í ró“, svo að þeir geti aðlagazt hinum nýja aðstæðum.

Af þeim, sem deyja afbrigðilegum dauðdaga, eiga þeir sem svifta sig sjálfir lífi oftast erfiðast með að átta sig. Þeir eiga venjulega við mikla erfiðleika að stríða, erfiðleika, sem dauðinn getur ekki bundið neinn enda á.

Sumir, sem svifta sig lífi öðrum til bjargar, komast þó stundum hjá þessum erfiðleikum, nema þeim einum, sem snöggur dauðdagi veldur. — Aðrir virðast bundnir við aðstæður, sem eru eins konar milliástandi milli jarðar og geðheima og losna ekki úr þessu ástandi fyrr en að því er virðist hin rétta dauðastund þeirra kemur.

Allt öðru máli gegnir um afbrigðilegan dauða manna sem fæðast andvana eða látast í

bernsku. — Annað hvort fæðast þeir fljótlega aftur til jarðarinnar — oft hjá sömu foreldrunum eða þeir taka út þroska sinn annars heims við hin ákjósanlegustu skilyrði. Barnið verður að vísu að læra þar allt frá byrjun. Það vex upp í geðlíkama sínum og nær háum þroska. Fullorðin verða þessi börn yfirleitt fegurri og hamingjusamari en aðrir íbúar hinna hærri heima.

Eftir að maðurinn vaknar upp til hins nýja lífs í geðheimum, er hann ekki eins og margir gera sér í hugarlund, „andi“ eða „sál“, — eitthvert efnisvana þokukennt fyrirbrigði utan og ofan við alla hlutlæga tilveru. Hann skynjar þvert á móti hinn nýja líkama sinn alveg jafn „þéttan“ og sinn fyrri efnislíkama. Hinn nýi líkami er á sama þéttleikastigi og hið nýja umhverfi.

Geðlíkaminn svarar áhrifum allra hluta sem eru á sömu bylgjulengd og það eitt verður manninum raunverulegt. — Þess vegna er manninum hér allt jafn „raunverulegt“ og „áþreifanlegt“ og það var á jörðinni. Jörðina aftur á móti skynjar hann sem skuggaveröld byggða lifandi líkum. Ljóðlínur Shelley. —

Friður. Friður. Hann er ekki dáinn, hann sefur ei.
Hann hefur vaknað af draumi lífsins —

verða hér sönn lýsing á viðhorfi hins nývaknaða manns.

Skáldið Rabindranath Tagore kemst einhvers staðar svo að orði, að för manna um veröldina sé líkt og sjóferð, þar sem allir ferðast á sama skipi, — þegar í höfn er komið fer hver til síns heima.

Gifta mannsins eftir líkamsdauðann er eingöngu komin undir skapgerð hans, breytni og venjum. Kamaloka eða Geðheimar þýðir bókstaflega heimur tilfinninganna og hér í hinni nýju tilveru verða tilfinningar og hugsun skapandi eða eyðandi afl, sem breytir öllu umhverfi mannsins í samræmi við eðli þeirra.

Þannig verða verk manna í jarðvist þeirra, tilhneigingar og þrár þeirra í lífinu, segulaflið sem dregur þá til hinna nýju heimkynna þeirra. Hver maður dregst að þeim hlutum og því umhverfi, sem honum er skyldast og hann hverfur til þeirra sviða, sem eru í beztu samræmi við þroska hans. Listamaðurinn getur hér fundið nýjan heim fegurðar og samræmis, vísindamaðurinn getur uppgötvað nýjar stofnanir til vís-

indaiðkana. Hver sem vinna vill í þágu lífsins og meðbræðra sinna finnur hér verksvið við sitt hæfi.

Kamaloka hefur oft verið skipt í sjö svið. Þessa skiptingu má þó ekki taka bókstaflega. Í fornum ritum Austurlanda er talan sjö helgitala, sem venjulega er í sinni heimspekilegu merkingu notuð um fjölda. Auk þess er hin margbreytilega lífsreynsla og umhverfi geðheima ekki skýrt afmarkað eins og glerhimnar Aristótelesar.

Tilgangurinn með lífi manna á lægstu sviðum geðheima er að nema burt úr eðli mannsins þær hvatir og hugsanir, sem eru honum fjötur um fót á þroskaferli hans. Þau eru því einskonar hreinsunareldur, sem brennir burt sorann úr hugsun manna og gerir þá nægilega hreina til að geta haldið för sinni áfram, og endurheimt hina týndu Paradís.

Ástæðan til að maðurinn gistir þessi svið er alltaf hin sama: — Illvild og skortur á kærleika. Öll hamingja manna og ófarnaður á sér aðeins tvær meginorsakir, illvild og góðvild. Hin síðari hefur skapað manninum allar paradísir og hin fyrri öll þau víti, sem hann þjáist í annars heims.

Illvild, grimmd, hefnigirni og illar ástríður deyja ekki með líkamanum. Þær verða þvert á móti sterkari í geðlíkamanum en þeim jarðneska og skapa manninum þjáningarfullar aðstæður. Kristur varar við þessari hættu er hann segir: „Vertu skjótur til sætta við mótstöðumann þinn, meðan þú ert enn á veginum með honum, svo að mótstöðumaðurinn selji þig eigi dómaranum í hendur, og dómarinn selji þig þjóninum í hendur, og þér verði varpað í fangelsi. Sannlega segi ég þér: Þú munt alls ekki komast út þaðan, fyrr en þú hefur borgað hinn síðasta eyri“.

Kristur kallar þetta ástand fangelsi, sem sitja verði í þar til goldinn sé hinn síðasti eyrir (Karmalögmálið). Á lægsta sviði geðheima er maðurinn fangi í tilveru, sem er full af ömurleika, sljóleika eða hryllingi.

Þessar aðstæður eru manninum þó nauðsynlegur skóli þótt harður sé. Sá sem áður var fullur af hroka, hatri og hefnigirni kemur úr þessum skóla auðmjúkur og fús til sátta. Þessi hugarfarsbreyting er mjög varanleg og hennar mun gæta í næstu jarðvist mannsins — og stundum koma fram sem sterk andúð á eða ótti við þá lesti, sem hann áður var haldinn.

Önnur svið geðheima eru all nákvæm eftirmynd jarðlífsins og hins jarðneska umhverfis. Að vísu er þar eins og alls staðar í geðheimum margt frábrugðið jarðlífinu. Næringu sína tekur geðlíkaminn beint úr andrúmsloftinu og klæði manna og vistarverur eru mótaðar með hugarorku einni saman. Hugurinn er hér hið mikla afl, sem stjórnar öllum hreyfingum manna. Litbrigði náttúrunnar, sem geta verið mjög fögur eru breytilegri en í jarðneskri náttúru.

Að þessu fráskildu er líf manna á þessum sviðum mjög líkt því sem var á jörðinni.

Ofar þessum sviðum geðheima taka við svið, sem samsvara hugmynd trúarbragðanna um Paradís. Hér verða allir litir skærari og náttúran yndisfögur.

Íbúar þessara sviða hafa losnað úr viðjum hinnar lægri náttúru Kama Rupa og eru ekki lengur „jarðbundnir“. Þetta er veröld hins einlæga trúmanns og hins skapandi manns, sem hefur leitað fegurðarinnar og fyllir allt umhverfi sitt birtu, góðvild og fegurð. Hér ræður ástin ríkjum og í hinum næma geðlíkama sínum kynnist maðurinn hér meiri hamingju en hann hefur haft reynslu fyrir á jörðinni.

Dvöl manna í þessum heimum er venjulega 30—40 jarðarár. Maðurinn deyr einnig í Kamaloka, þegar tilgangi lífs hans þar hefur verið náð, og fæðist í nýjum líkama til Devachan eða æðri heima. Devachan samsvarar hugmynd okkar um himnaríki. Þetta gerist á svipaðan hátt og áður, maðurinn missir meðvitund um stund og huglíkaminn greinist frá geðlíkamanum.

Hinn þriðji líkami mannsins hefur í dulspekilegum fræðum verið greindur í marga andlega líkama, sem kann að vera sannreynd á hærri sviðum en verður ekki farið út í hér því sá veruleiki er ofar mannlegri reynslu. Það sem kristnir menn kalla sál og indversk dulspeki sjálfið eða ég-ið er hinn fjórði líkami mannsins, sem er hið innra líf hinna þriggja.

Á sama hátt og tilgangurinn með lífi mannsins í geðheimum var að hreinsa, göfga og fegra eðli hans, eins er höfuðtilgangur lífsins í æðri heimum, að vinna úr allri reynslu liðinnar ævi, víkka vitundina, dýpka hinar æðri tilfinningar og innsæi mannsins og vekja blundandi öfl sálarinnar. Hér hefur maðurinn fullt yfirlit yfir fortíð sína og hér skapar hann sér nýjar áætl-

anir um framtíð sína og smíðar sér vopn til hinnar nýju baráttu.

Ofar þessum stigum eru önnur, „Ljósheimar“, þar sem sagt er að stærstu andar mannkynsins búi. Þar er vitundin líkari heimsvitund en vitund þess spendýrsheila, sem okkur er gefinn. Fortíð og framtíð blandast þar saman og markmið og leiðir liggja þar ljóst fyrir. Þessir menn eru þarna lengi, oft öldum og árþúsundum saman áður en þeir endurfæðast. En einnig þeir fá loks löngun til að hverfa til jarðarinnar og framkvæma þar ákveðið verk í þágu framvindunnar.

Á sama hátt og maðurinn hefur þrjá líkama hefur hann þrjár vitundir, sem svara nákvæmlega til hinna þriggja heima. Skynfæri, taugakerfi og skynsemi mynda hina jarðnesku vitund mannsins. Þau eru tæki til að skynja þann veruleika, sem ríkir á þessu sviði.

En þar sem hinir æðri heimar eru byggðir upp á öðrum grundvelli, yrði hin jarðneska vitund mannsins blind þar. Þess vegna verða hin æðri vitundarsvið mannsins að koma þar upp á yfirborðið til að skynja hina nýju og ólíku tilveru. Á jörðinni hefur maðurinn einnig hinar

tvær æðri vitundir sínar, en þær eru þar dulvitaðar og bíða birtingar sinnar líkt og líkamar hans, þar til komið er til þeirra eigin sviðs.

Þessar vitundir eru aldrei óvirkar, þótt þær séu dulvitaðar, heldur vinna þær hver á sínu sviði og safna reynslu og þekkingu um árþúsundir.

En hefur þessi för tilgang? Okkur er sagt, að markmið hennar sé mannleg fullkomnun. En áður en henni er náð, verður einstaklingurinn að hafa aflað sér fullkominnar þekkingar á öllum fyrirbrigðum mannlífsins. Öll sú reynsla og þekking, sem maðurinn aflar sér, glatast ekki, heldur geymist dulvituð í vitundum hans, og þegar marki hans er náð, verður hún eign hans.

En meðan henni er ekki náð heldur för mannsins áfram. Á sama hátt og hann fór upp („upp“ og „niður“ er hér að sjálfsögðu notað í táknrænni merkingu) verður hann einnig að halda niður hinar þrjár veraldir.

Í sjálfi (eða sál) mannsins hefur hinn varanlegi kjarni huglíkamans og geðlíkamans geymt í sér alla þá reynslu sem maðurinn hefur orðið fyrir, þegar hann var áður í þessum líkömum. Sjálf mannsins varðveitir einnig alla

fyrri reynslu hans. — Þegar dregur að því að maðurinn hverfi til jarðarinnar aftur, fara þessir kjarnar að skapa nýjan hug- og geðlíkama, bæði úr orku sem losnar úr læðingi í þeim sjálfum og úr efni hug- og geðheima, sem hefur tíðni og aðra eiginleika í samræmi við eðli þessara varanlegu kjarna. Þessir líkamar verða þó ekki fullskapaðir fyrr en í efnislíkamanum. Menn geta einnig horfið til jarðarinnar fljótlega, meðan þeir eru enn í geðheimum. Hinir varanlegu kjarnar geð- og huglíkamans eru þá í sjálfi mannsins, sem tengist hinum nýja jarðlíkama og fullþroskast þar með efnislíkamanum.

Dauðinn til jarðarinnar, sem kallaður er fæðing, er í raun og veru hinn eini dauði sem menn hafa ástæðu til að óttast, vegna þess að hann fær þá til að gleyma fortíð sinni um skeið.

Þessa för til jarðarinnar óttast líka flestir eins og menn hér óttast dauða sinn og reyna að komast hjá henni í lengstu lög. En þessari hringrás mannsins um hinar þrjár veraldir verður ekki lokið fyrr en maðurinn hefur náð fullum þroska og losnað undan mætti lögmálsins.

Svör við þeirri spurningu hvað raunveru-

lega gerist, þegar maðurinn fer frá Kámaloka og fæðist á jörðinni hefur mér ekki tekizt að finna í bókum. Hið eina svar, sem þar er að finna, er að maðurinn sé meðvitundarlaus, þar til hann kennir sín á jörðinni. Þetta hefur mér jafnan þótt veikasti hlekkurinn í þessari kenningu um endurfæðingu og fortilveru mannsins.

Í sambandi við þetta langar mig til að segja stutta sögu af austurlenzkum kunnáttumanni, sem svaraði mér þessari spurningu minni á mjög óvenjulegan hátt.

Er ég var staddur í bæ einum í Himalaya-fjöllum. Hitti ég þar tvo Indverja af Sikha þjóðflokki, sem fræddu mig um að þar í bænum væri staddur einsetumaður, er væri vanur að koma þangað á nokkurra ára fresti. Ekki þekktu þeir nafn hans en töldu hann andlegt yfirhöfuð Norður-Indlands. Það varð úr að Sikharnir buðust til að fara með mig á fund þessa manns. Hann var staddur í húsi einu þar í bænum og er við komum til hans sat hann þögull við altari fyrir miðjum vegg innst í litlum sal. Sikharnir höfðu sagt mér, að þessi meistari kenndi með þögninni einni, að hann læsi spurningarnar ósagðar í huga nemandans og svaraði þeim aftur í fullmótuðum svörum

inn í huga þess er spurði, án þess að segja eitt einasta orð.

Ég — Vesturlandabúinn — lét slíkar fullyrðinga sem vind um eyrun þjóta og skoðaði þær sem skemmtilega fjarstæðu. Ég fékk mér sæti á gólfinu og reyndi að gera mig heimakominn, tókst þó ekki að sitja í yogastellingum sem aðrir nemendur, er þar voru fyrir, en settist í þess stað flötum beinum á gólfið og leið engan veginn vel. Sikharnir, sem voru ungir menn og framhleypnir, þokuðu sér óbeðnir upp að altarinu og tilkynntu meistaranum að kominn væri heimspekingur frá Vesturlöndum, sem óskaði eftir viðræðum um andleg mál! Ég óskaði þessum félögum mínum norður og niður vegna þessarar framtakssemi, en meistarinn tók þessu góðmannlega og eftir nokkra þögn benti hann mér að koma til sín. Hann gerði þá undantekningu, þar sem ég var útlendingur að mæla við mig á enska tungu og bauð mér að spyrja sig þeirra spurninga, sem mig lysti. Ég notfærði mér þetta boð og lagði fyrir hann nokkrar þær spurningar, sem mér sjálfum virtust sérlega erfiðar viðfangs og varð fyrir þeirri undarlegustu reynslu sem fyrir mig hefur borið á lífsleiðinni: Ég hafði ekki fyrr borið upp

spurningu en svarinu laust niður í huga minn eins og leiftri, skýru, einföldu og að því er virtist alveg sjálfsögðu. Flest þessara svara studdist ég við og notfærði mér í bók minni um indverska heimspeki, Rödd Indlands, að einni undantekinni. Ekki þó svo að skilja, að ég teldi það svar ómerkara, heldur blátt áfram of furðulegt til þess að ég treysti mér til að byggja á því. Sú spurning var einmitt um þá kenningu, sem hér hefur verið gerð að umræðuefni. Spurning mín var á þessa leið: „Ég hef oft lesið um það, að maðurinn endurfæðist til jarðarinnar, en ég veit ekki til að í þessum bókum sé neins staðar skýrt frá, hvernig þetta gerist — aðeins sagt að um meðvitundarleysi sé að ræða frá því maðurinn hverfur frá Kamaloka og endurfæðist sem barn á jörðinni. Og því langar mig til að spyrja. Hvað er það sem raunverulega gerist?

Þetta var eina spurningin sem hann svaraði ekki þegar í stað en fullyrti að ég skyldi fá svar við spurningunni næstu nótt. — Samtalinu var lokið og þessi undarlegi maður kvaddi og gaf mér mangóávöxt og blessun sína að skilnaði. Ég yfirgaf þennan skóla þagnarinnar og hélt heimleiðis. Ég fór að sofa um tólfleytið um kvöldið vantrúaður á þá vitrun sem mér hafði

verið heitin. En ég hafði ekki fyrr fest blund en ég varð fyrir reynslu sem ekki líktist draumi. Þótti mér ég vera staddur í geðheimum á stað sem dulfróðir menn hafa nefnt biðstofu lífsins. Mér fannst ég liggja á bekk líkt og ég væri á sjúkrahúsi, þótt ekki væri um neina sýnilega byggingu að ræða. Aðrir menn lágu í kringum mig á sams konar bekkjum. Mér leið illa. Loftið var svarblátt og blandið þjáningu og kvíða. Ég var í geðlíkama og vitund mín var geðheimavitund. Ég vissi að ég var að skilja við en gerði mér ekki ljósa grein fyrir ástandi mínu né fyrir því hvað við tæki. Loks fannst mér ég missa vald yfir líkamanum og líða upp í loftið. Ónotatilfinningin hvarf og ég missti meðvitund um stund. Á næsta stigi í þessari undarlegu reynslu var mín fyrri vitund horfin. Líkami minn virtist bjartari, hreinni og léttari og hin nýja vitund mín var kristalskýr og máttug. Ég var staddur í „röstinni" á landamærum geðheima og efnisheimsins. Hún er ekki landamæri í rúmi heldur í ástandi. Ég skynjaði óravíddir geimsins en gagnvart skynjun minni var allur þessi mikli stjarnheimur fyrir neðan mig. Ég vissi hvert ég var að fara, sá og fann þá stjörnu er ég átti að hverfa til. Í þessu ástandi fannst mér

vitund mín fær um að leysa úr hverri spurningu sem hún beindist að. Ég hugsaði. Hvað þekkja íbúar minnar fyrirheitnu stjörnu mikinn hluta þessa stjarnheims? Og um leið skynjaði ég hinn þekkta alheim jarðarbúa. — Örlítinn hring í stjarnhafinu! — Á vinstri hönd (gagnvart skynjun minni) var óreglulega lagað ferhyrnt rjóður í þennan að því er virtist óendanlega stjarnheim. Það var skammt frá hinum ímyndaða hring, sem takmarkaði þekkingu manna á geimnum en margfalt stærra en hann. Ég skemmti mér við þá tilhugsun, að ef mannleg þekking gæti einhvern tíma náð að þessari eyðu mundi koma fram hávísindaleg kenning um að takmörk alheimsins væru fundin, því til að komast yfir það þyrfti hinn þekkti alheimur mannsins að hundraðfaldast, sem virtist næsta vonlaust. Samt var þetta rjóður ekki stærra en lítil eyja á að því er virtist endalausu hafi.

Þessum hugleiðingum mínum lauk við það að mér fannst eins og líkaminn leysast upp í straum, og berast líkt og ljós eða rafföldur í átt til hins nýja ákvörðunarstaðar. Samt skynjaði ég ekki eiginlega hreyfingu. Það var eins og líkaminn hyrfi en vitundin væri ein eftir. Þessu

ástandi lauk er ég kom í námunda við jörðina og ég varð mér aftur meðvitandi um líkama minn. Að sjá jörðina og finna orkaði mjög sterkt á vitund mína. Ég sá greinilega höf og álfur þar sem eyður voru í skýjahafið. Miklu sterkar orkaði þó á mig niðurinn sem frá henni barst og hinn gífurlegi kraftur sem út frá henni streymdi. Ég nálgaðist jörðina án þess að ráða för minni og samt gerði ég tilraun til þess. Ég man það síðast í þessu ástandi að ég reyndi að lenda ekki svona norðarlega — mér stóð beigur af að fæðast á þeim slóðum. En árangurslaust, ég dróst að jörðinni með ómótstæðilegu afli og missti meðvitund öðru sinni.

Þriðja stigið á þessu kynlega ferðalagi kom mér enn meira á óvart en jafnvel hin tvö. — Ég hafði tvær vitundir. Hin fyrri var vitund fósturs í móðurkviði, vitund án hugsunar og aðgreiningarkenndar, en samt óljós vitund eins og þegar haft er veður af einhverju gegnum djúpan og væran svefn. Síðari vitundin sem var fyrir utan var mjög svipuð þeirri vitund sem ég nú hef. Það var náið samband milli þessara vitunda, sem er í raun og veru ein þótt hún sé skynjuð sem tvær. Sú vitund sem stóð fyrir utan fóstrið skynjaði líðan og ástand fóst-

urvitundarinnar og ég þóttist vita að hún mundi smám saman renna saman við hana eftir því sem líffæri barnsins þroskuðust, og að þessi sameining tæki mestan hluta af uppvaxtarskeiði mannsins. Þessi „draumur“ eða þetta svar endaði á því að ég fæddist, grét og hrökk upp af þessu undarlega ástandi, sem á engan hátt líktist venjulegum draumi. Klukkan var nákvæmlega tíu mínútur yfir tólf. Hinn óþekkti meistari hafði staðið við orð sitt og þessu svari hans fylgdi sama sannfæringin og öðrum svörum hans. Er ég hafði fengið það var ég viss um að þannig — og á engan annan hátt, gerðist hinn dularfyllsti atburður í lífi mannsins á för hans um hina þrjá heima. Þessi reynsla er upplifuð í vitund, sem er dulvituð bæði á jörðinni og í geðheimum og því ráðgáta í báðum þessum heimum. Ég var sannfærður um að það sem gerzt hafði var það, að með vísindum sínum hafði hinn austurlenzki kunnáttumaður látið mig muna og rifja upp mína síðustu för til jarðarinnar, sem geymst hefur dulvituð í vitund minni.

Ég veit að margir greindir ágætismenn munu telja þetta draum og fóstur ímyndunaraflsins en ekki raunverulega reynslu. Að minni hyggju

er þetta bein reynsla, en þá sannfæringu get ég ekki gefið öðrum.

Þeir menn á Vesturlöndum, sem trúa á annað líf eftir dauðann eru margir hverjir andsnúnir kenningunni um fortilveru sálarinnar. Höfuðástæðan er sú að þeir álíta að hún sé í andstöðu við boðskap kristindómsins. Þetta sjónarmið þarfnast nánari athugunar.

Eins og áður er sagt var trúin á fortilveru og endurfæðingu sálarinnar algeng meðal Gyðinga á dögum Krists, og viðurkennd af Essenum, þeim trúarflokki, sem sagt er að Kristur hafi staðið næst. Sjálfur talar hann um fortilveru sína sem sjálfsagðan hlut: — „Til þess var ég sendur", segir hann. Sendur hvaðan? Að sjálfsögðu er hann til á himnum áður en hann er sendur til jarðarinnar. Í orðum hans er hvergi að finna neitt, sem mælir gegn þessari kenningu. Ætla mætti að hann hefði einhvers staðar andmælt henni jafn algeng og hún var, ef hann hefði talið hana ranga. Í Lúkasar guðspjalli er t. d. vikið að þessari kenningu í eftirfarandi frásögn: — „En svo bar við, er hann var einn saman á bæn, að lærisveinar hans voru hjá honum, og spurði hann þá og sagði: Hvern segir fólkið mig vera? En þeir svöruðu

og sögðu: Jóhannes skírara, aðrir Elía, og aðrir, að einn af hinum fornu spámönnum sé risinn upp“ — Hér tala lærisveinarnir einnig um fortilveru eins og sjálfsagðan hlut, og það er ekki sennilegt að þeir hefðu talað þannig, ef þeir hefðu vitað að meistarinn teldi þessa kenningu v illu. Kristur leiðréttir þá ekki eða andmælir augljósri skírskotun þeirra til kenningarinnar um fortilveru.

Í Matthíusarguðspjalli segir ennfremur um Jóhannes skírara: „Og ef þér viljið veita því viðtöku, þá er hann sá Elía, sem koma á“. Og ennfremur í sama guðspjalli: „En ég segi yður að Elía er nú þegar kominn, en þeir þekktu hann eigi, heldur gjörðu við hann allt, er þá lysti; þannig á mannssonurinn að þola þjáningar af hendi þeirra. Þá skildu lærisveinarnir, að hann talaði við þá um Jóhannes skírara“.

Hér virðist sagt með ljósum orðum, að Jóhannes skírari sé Elía endurborinn. Og í orðunum liggur að spámannshæfileikar Jóhannesar skírara séu þroskaðir áður en hann kemur til jarðarinnar. Guðfræðingarnir sumir a. m. k. skýra þessi dæmi á annan veg, — en er þeirra skilningur réttur?

Óhætt er að fullyrða að þessari kenningu um

fortilveru sálarinnar er hvergi neitað í Nýja-Testamentinu. Það virðist einnig staðreynd að hinn kristni heimur trúi á fortilveru og endurfæðingu til jarðarinnar ekki aðeins í frumkristninni, heldur fyrstu fimm til sex aldirnar eftir að Kristur boðaði fagnaðarerindi sitt og Origen, heilagur Águstinus og heilagur Frans frá Assisi játuðu allir þessa trú.

Fyrst á kirkjuþingi í Konstantinopel árið 553 e. K. var þessari kenningu hafnað og var þar þó um þriðjungur atkvæða gegn hinu nýja valdboði, um að trú á fortilveru skyldi dæmast villutrú. Katólski presturinn G. Nevin Drinkwater hefur í ritgerð um þetta efni neitað því, að þessi kenning hafi nokkurn tíma verið dæmd trúvilla á almennu kirkjuþingi. Hann segir: — „Það sem í raun og veru gerðist samkvæmt kirkjusögu Robertson og Hefele var það að „local synod“ fordæmdi í Konstantinopel 553 kenningar Origens um fortilveru og þetta var að sjálfsögðu ekki bindandi fyrir kirkjuna í heild. Í dag eru til þeir menn sem tilheyra rómversk-katólsku kirkjunni og aðhyllast trúna á fortilveru og endurfæðingu, án þess að sú trú þeirra sé talin villa“.

Sú staðreynd, að hinn kristni heimur er í dag

yfirleitt mótfallinn þessari fornu kenningu á því rætur sínar augljóslega fyrst og fremst að rekja til valdabaráttu innan kirkjunnar á 6. öld e. K. en byggist ekki á nokkurn hátt á kenningum Krists.

Þá verður ekki séð, að umrædd kenning stangist á nokkurn hátt á við kristna siðfræði. Kjarninn í boðskap kristninnar er að guð sé réttlátur, að lífið hafi þann tilgang að gera manninn fullkominn, hugsjón hans og takmark er að mannkynið nái þeim þroska, að vilji guðs ráði á jörðu eins og á himni. Ef maðurinn ætti aðeins eitt æviskeið, er erfitt að sjá að lífið sé réttlátt gagnvart öllum mönnum. Og erfitt er að sjá hvernig maðurinn getur á einu æviskeiði náð þeim þroska sem er takmark sannrar kristni. Kristin siðfræði er þannig á engan hátt í ósamræmi við kenninguna um fortilveru og endurfæðingu, nema síður sé. Þegar þetta er haft í huga þarf engan að undra að margir af stærstu öndum Vesturlanda hafa stutt þessa kenningu þrátt fyrir afstöðu kirkjunnar. Meðal þeirra eru Walt Whitman, Goethe, Tennyson, Myers, Rudyard Kipling, Ibsen, Lavater, Longfellow, Swinburne, Emerson, Kant, Fichte, Lessing, Leibnitz, David Hume, Huxley, Flamm-

arion, Schopenhauer, Giordano Bruno, John Masefield, Dante Gabriel Rosetti, Maeterlinck og Browning, svo að einhverjir séu nefndir. Af frægum mönnum fornaldarinnar má t.d. nefna Cicero, Seneca, Plotinus, Pyþagoras, Sókrates og Platon. Kirkjufeður eins og Origen, Clemens Alexandrinus, Frans frá Assisi, heilagan Ágústínus, Justin Martyr, St. Jerome o. s. fr.

En eins og áður er sagt, þó að ýmsir góðir menn á Vesturlöndum séu kenningunni hlynntir, eru miklu fleiri þar henni mótsnúnir. Og þeir hafa sín rök fram að færa. Margir eru þeirrar skoðunar, að tilvera mannsins hljóti einhvers staðar að hafa byrjað og spyrja: Hvar og hvenær var hin fyrsta fæðing? Síðan glíma þeir við gátuna gömlu um, hvort fyrr hafi verið skapað eggið eða hænan! — Kom efnið fyrst og skapaðist andinn síðan vegna vissra eiginleika þess? Eða varð andinn fyrst til og kom hann síðan til jarðarinnar?

En þessar spurningar eru rangar vegna þess, að spyrjandinn slær því föstu án þess að sanna það, að efnið eða andinn hafi orðið til — eða að til sé algjört (absolut) upphaf nokkurs hlutar. Að áliti Indverja getur hvorki efni né andi byrjað að vera til. Það er eilíft. Sál manna sem

hlýtur alltaf að vera í tengslum við einhverja tegund af efni eða orku, sem er eitt og hið sama fyrirbrigði, á sér heldur ekkert upphaf. Ef hún ætti sér upphaf, væri hún ekki raunveruleg, því að þá væri hún ekki eilíf. Það, sem byrjar og endar, kemur og fer, svo aðeins hið eilífa er raunverulegt í þeim skilningi. Við segjum, að guð sé eilífur. Hann er hin mikla sól alverunnar. Geislar þessarar sólar eru tilveran. Sál mannsins er einn þessara geisla. Ef þessi sól er eilíf, hljóta geislar hennar líka að vera eilífir, því að sólin er sól vegna geisla sinna.

Til eru aðrir menn, sem segja, að kenningin um fortilveru hljóti að vera röng, því að ef við hefðum lifað í fyrri tilverum mundum við muna eitthvert brot þeirra. Þessi gagnrýni virðist hafa nokkuð til síns máls, því að hvað kemur okkur við fortilvera, sem er eilíflega gleymd og grafin? Ef við munum hana ekki, sannar það, að samhengi einstaklingsvitundarinnar er rofið og að rjúfa það jafngildir dauða. „Því fer fjarri", svara hinir gömlu lærifeður. — Í fyrsta lagi halda eiginleikar einstaklingsins, tilhneigingar hans og þroski áfram í réttu samhengi og framhaldi af hinni gleymdu fortilveru, líkt og maður, sem missir minni sitt, skiptir ekki um per-

sónuleika. Reynsla mannsins þrjú fyrstu æviár hans á jörðinni hefur t.d. jafn mikla þýðingu fyrir mótun framtíðar hans, þótt allir atburðir þessara ára séu dulvitað minni. Í öðru lagi, segja hinir gömlu lærifeður, höfum við alls ekki gleymt fortilveru okkar, heldur munum við hana!

Næstum allt minni okkar frá liðnum dögum í þessu lífi er dulvitað minni. Minningin frá fyrri tilveru er á sama hátt ekki glötuð, heldur dulvituð. Viss hluti vitundarinnar man. Þegar vissu stigi í þroska mannsins er náð, verður hann sér meðvitandi um fortíð sína. Raja-Yoga kennir mönnum, hvernig þeir geta jafnvel í þessu lífi endurheimt minni sitt og sannreynt sjálfir þessa kenningu.

Þriðja og algengasta mótbáran gegn þessari kenningu er þó það, sem nútímavísindi hafa að segja um erfðir. Ef við erfum eiginleika foreldra okkar og forfeðra, hvernig getum við þá fæðzt inn í þennan heim og samt haft persónuleika í beinu og rökréttu framhaldi af fortilveru okkar? — Þetta er skýrt á þann veg, að einstaklingurinn dragist að öllu því, sem honum er skyldast.

Erfðafræðin kennir, að menn erfi ekki aðeins

eiginleika foreldra sinna, heldur sé hægt að erfa alla eiginleika alls kynstofnsins. Hún kennir, að hending ein ráði, hvernig erfðir tengjast í einstökum atriðum.

Í indverskri heimspeki eru tilviljanir ekki viðurkenndar. Allir hlutir hljóta að eiga sér orsök, jafnvel þó sú orsök sé vísindunum ekki kunn! — Þar er því haldið fram, að þessi tengsl gerist í samræmi við persónuleika og karma hins óborna. Vísindamenn, sem kynnt hafa sér þessa kenningu um fortilveru og endurholdgun og hafa einnig náin kynni af því, sem nútímavísindi hafa að segja um erfðir, munu því hika við að fullyrða, að þessar tvær kenningar séu í andstöðu hvor við aðra. Huxley, einn þekktasti vísindamaður þessarar aldar, segir m.a. í riti sínu **Evolution and Ethics** (Þróun og siðfræði): „Engir aðrir en grunnfærir menn munu neita henni (kenningunni um fortilveru sálarinnar og endurfæðingu) sem fjarstæðu á grundvelli erfðafræðinnar. Eins og kenningin um sjálfa framþróunina á hún rætur sínar í heimi veruleikans“.

Hér hefur verið leitazt við að klæða hina fornu kenningu um fortilveru mannsins í nýjan búning og túlka hana að nokkru leyti í ljósi

nýrrar þekkingar. En kjarni hennar er enn hinn sami: Hin langa för mannsins um hinar þrjár veraldir heldur áfram, þar til hvatir hans verða hreinar, hugurinn styrkur og hin háa hugsjón um fullkomnun mannsins er orðin að veruleika.

Þessi kenning verður ekki sönnuð með aðferðum raunvísindanna, enn sem komið er, en hún hefur verið boðuð um langan aldur af sjáendum, sem hafa haft tveggja heima sýn. Hún er trú í hinni réttu merkingu þess orðs, því að trúin er ekki játningar á utanaðlærðum ritningargreinum. Trúmaðurinn verður að lifa í því og reyna það sem hann trúir á og verða eitt með því. Honum er ekki nóg að ganga veg trúarinnar, hann verður að vera vegurinn.

Menn sem hafa ekki andlega sýn en styðjast eingöngu við dauðan bókstafinn án innri skilnings munu ævinlega misskilja og rangtúlka kenningu hinna miklu fræðara.

E.t.v. er að finna í ritningunni einhverja beztu lýsingu á fortilveru og endurfæðingu, sem skráð hefur verið, en í orðunum er falinn spádómur um að hún muni misskilin verða af mönnum sem skortir hina trúarlegu reynslu til að skilja hina dýpri merkingu hennar: — „Ef

þér trúið eigi, þegar ég segi yður frá jarðneskum hlutum, hvernig munuð þér þá trúa, ef ég segi yður frá himneskum?"

Þessa frásögn er að finna í Jóhannesarguðspjalli, 3. kapitula: — „Nú var maður nokkur af flokki Fariseanna, að nafni Nikódemus, ráðherra meðal Gyðinga. Hann kom til hans um nótt og sagði við hann: Rabbí, vér vitum, að þú ert lærimeistari **kominn frá Guði**, því að enginn getur gert þessi tákn, sem þú gjörir, nema Guð sé með honum. Jesús svaraði og sagði við hann: Sannlega, sannlega segi ég þér: enginn getur séð guðsríki, nema hann endurfæðist. (Annar orðréttur lesmáti þessarar setningar er: **nema hann sé getinn að ofan**). Nikódemus segir við hann: Hvernig getur nokkur fæðst, þegar hann er orðinn gamall? Hvort getur hann komist inn í kvið móður sinnar og fæðst? Jesús svaraði: Sannlega, sannlega segi ég þér, ef maðurinn fæðist ekki af vatni og anda (annar orðréttur lesmáti þessar setningar er: ef **maðurinn er ekki getinn fyrir vatn og anda**) getur hann ekki komist inn í Guðsríkið. Það sem af holdinu er fætt, er hold, og það sem af andanum er fætt, er andi. Undrast þú ekki að ég sagði þér: Yður ber að endurfæðast. Vind-

urinn blæs, hvar sem hann vill, og þú heyrir þytinn í honum, en ekki veiztu hvaðan hann kemur eða hvert hann fer; eins er farið hverjum sem af andanum er fæddur. Nikódemus svaraði og sagði við hann: Hvernig má þetta verða? Jesús svaraði og sagði við hann: Þú ert lærimeistari í Ísrael og veist ekki þetta? Sannlega, sannlega segi ég þér, vér tölum það, sem vér vitum, og berum vitni um það, sem vér höfum séð, og vitnisburði vorum veitið þér ekki viðtöku. Ef þér trúið eigi, þegar ég segi yður frá jarðneskum hlutum, hvernig munuð þér þá trúa, ef ég segi yður frá himneskum? Og þó hefur enginn stigið upp til himins, nema sá er niður sté af himni, mannssonurinn, sem er á himni". ( Í elztu handritum er þessum fjórum síðustu orðum sleppt). —

Nikódemus byrjar hér að tala við Krist um fortilveru hans og Kristur útskýrir fyrir honum, að ekki sé hægt fyrir manninn að komast til himnaríkis, nema hann sé „getinn að ofan". Og þegar hann er beðinn um skýringu bætir hann við: „ef maðurinn er ekki getinn fyrir vatn og anda, getur hann ekki komizt inn í guðsríkið". Geðheimar voru alls staðar í austurlenzkum fræðum táknaðir með vatni og hug-

heimar kenndir við anda. Grikkir töluðu einnig um hina lægri og hærri himna sem „vatn“ og „anda“. Með öðrum orðum, ef maðurinn er ekki getinn fyrir þessa heima, þ.e.a.s. hefur fengið líkama fyrir geðheima og hugheima, hefur maðurinn að sjálfsögðu enga möguleika til að komast frá jörðinni inn í guðsríkið, (æðri heima). Enginn getur séð guðsríkið nema hann sé „getinn fyrir vatn og anda“, og „enginn fer til himins nema sá sem niður sté“. —

Ef skýring guðfræðinganna á þessum orðum væri hins vegar rétt, þýddi þetta, að allar þær milljónir manna, sem fæðzt hafa á undan Kristi eða játa ekki kristna trú eru eilíflega glataðar, sem er ekki sannfærandi kenning, og raunar andstæð öllu eðli kristindómsins.

„Vér tölum það, sem vér vitum, og berum vitni um það, sem vér höfum séð, og vitnisburði vorum veitið þér ekki viðtöku“, voru spádómsorð Krists. Þau orð eru enn í fullu gildi.

En þegar nóttin kemur og sviptir hulu dagsins af eilífri veröld stjarnanna getur reynslan ein sannað mönnum, að engill dauðans ferðast aldrei einn. Engill lífsins er ævinlega í för með honum.